Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN VIKUBLAÐ. MÁLSVARI VERKAFÓLKS!

Ársáskrift ............3000kr.
Hálfsársáskrift.........1800kr.
Ársfjórðungsáskrift.... 1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)..........5000kr.
Öryrkjar, heilt ár. 300kr.

30. tölublað | þriðjudagur 6. september | 6. árgangur | VERÐ KR: 60.

## Ræða Hua Kuo Fengs á 11. þingi KFK

Í upphafi skýrslu sinnar minntist Hua formaður látinna félaga, m.a. Maós formanns, Chou En Læs, Chu Thes og Kang Shengs, auk margra annarra, nefndra og ónefndra, sem látist hafa frá því 10. þingið var haldið.

Í skýrslunni segir félagi Hua að þingið hafi sögulegu hlutverki að gegna. Það er m.a. að halda áfram að fylgja kenningu Maós, draga saman reynslu af baráttunni gegn "fjórmenningunum" og gera hana að eign flokksins, örva til dáða öll jákvæð öfl innan sem utan flokksins, sameina alla sem hægt er að sameina, koma á röð og reglu í landinu og stefna að því að gera Kína voldugt sósíalískt ríki í lok þessarar aldar.

Hua formaður fór síðan nokkrum orðum um mikilvægi kenninga Maós fyrir sósíalíska uppbyggingu í Kína, sem og annras staðar.

Meðal annars benti Hua formaður á að Maó hafði séð í gegnun andflokkslega tilburði "fjórmenninganna" fyrir löngu síðan og gagnrýnt þá og tekist á hendur að leiða baráttuna gegn þeim. Þannig er sigurinn yfir "fjórmenningunum" sigur kenninga Maós, sigur flokksins, hersins og fólksins í landinu.

Hua benti á að fræðilega séð hefði tveggja lína barátta í flokknum orðið í kringum kenninguna um stöðuga byltingu á skeiði alræðis öreiganna eða hvort ætti að draga úr henni. "Fjórmenningarnir" höfnuðu gjörsamlega kenningum flokksins um hið sögulega sósíalíska skeið og spurningunni um borgaraleg öfl innan flokksins. Þeir bjuggu til kenningu sem meðhöndlaði gamla og reynda félaga innan flokksins sem lýðræðissinna og lýðræðissinna sem erindreka kapítalismans. Þeir staðhæfðu að innan flokksins og hersins væri "borgarastétt" og rugluðu og rangfærðu afstöðu fólksins til óvinanna. Þeir reyndu að bola burt mörgum gömlum og reyndum félögum til að eyðileggja flokkinn, ríkisstjórnina og herinn, með það að markmiði að endurreisa kapítalismann í landinu. Félagi Hua sagði að svo lengi sem stjórn landsins væri í höndum sannra marx-lenínista gætu erindrekar kapítalismans innan flokksins aldrei náð áhrifum eða völdum, vegna fæðar þeirra og vegna þess að þeir væru stöðugt afhjúpaðir og gerðir óskaðlegir. Yfirgnæfandi meirihluti flokksfélaganna væri alls ekki "borgaralegir kratar" heldur byltingarsinnar.

Sigurinn yfir klíku "fjórmenninganna" er enn einn sigur alræðis öreiganna í Kína. Þetta er sigur hinnar miklu menningarbyltingar öreiganna og táknar jafnframt endalok fyrstu menningarbyltingar öreiganna, sem hófst fyrir ellefu árum. Þetta táknar þó alls ekki endalok stéttabaráttunnar, hinnar stöðugu byltingar á tímaskeiði alræðis öreiganna. Nú að lokinni baráttunni gegn "fjórmenningunum" er hægt að sameina og styrkja flokkinn og fólkið og koma á röð og reglu í landinu.

Hua formaður skilgreindi heimsástandið í ræðu sinni og benti á að jafnframt því sem byltingarvitund og byltingaröfl efldust þá ykist líka styrjaldarhættan. Risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin, eru aðaluppspretta styrjaldar og nú stafar meiri hætta af sósíalheimsvaldasinnunum í Kreml.

Þess vegna ættu kínverjar að treysta betur vináttuböndin við sósíalísku ríkin, verkalýð og kúgað fólk allra landa. Treysta einnig samskiptin við ríki þriðja heimsins og öll þau ríki sem andstæð eru heimsvaldastefnu og sósíalheimsvaldastefnu og mynda sameiginlega fylkingu gegn yfirráðum risaveldanna. Einnig

frh. á síðu 3




Olíuverkamennirnir gagnrýna "fjórmenningana"

## Af hverju orðin tóm?

Meitillinn í Þorlákshöfn er búinn að loka frystihúsi sínu, og togarinn Jón Vídalín sem lagði þar upp afla sinn er í söluferð í Færeyjum. Tugir verkafólks í plássinu eru atvinnulausir vegna ákvörðunar forstjórans í þessu samvinnufyrirtæki um að loka frystihúsinu. Þess vegna hafa stjórnir viðkomandi verkalýðsfélaga mótmælt harðlega og kenna íhaldsstefnu ríkisstjórnarinnar réttilega um að ekkert skuli vera aðhafst til úrbóta í málinu. En því miður láta viðkomandi verkalýðsfélög og verkamannasamband Íslands aðeins sitja við harðorð mótmæli.

Verkamannasambandið sem í eru 11000 manns er ekki notað til að kúga einokunarhringinn SÍS til að halda uppi fullri atvinnu í Meitlinum. Það mætti auðveldlega gera á skjótan og áhrifaríkan hátt, til dæmis með því að stöðva alla inn- og útskipun Sambandsskipanna með aðferðum skæruverkfalla. En Verkamannasambandið sem Eðvarð Sig. og Guðmundur J. stjórna grípur ekki til neinna slíkra aðgerða heldur lætur sitja við orðin tóm harðorð mótmæli eða órökstuddar fullyrðingar um að kjör verkafólksins verði varin.

Verkalýðshreyfingin eins og hún er í dag undir stjórn þeirra manna sem auðvaldið launar með bitlingum í ríkiskerfinu og bæjarfélögum er ófær um aðgerðir þegar um atvinnuöryggi í heilu sjávarplássi er að tefla. Verkalýðsforingjarnir okkar eru svo fjarskalega löghlýðnir þegar mikið ríður á um aðgerðir gegn atvinnurekendum sem sparka tugum verkafólks og beita þannig ólögum.

Ekkert er hægt að gera segja þeir og fyrir bragðið er Verkamannasambandið undir stjórn þessara manna eins og lamaður risi. Að vísu benda þessir herramenn á eina lausn og hún er sú að verkafólk kjósi þá og þeirra flokk til að setjast í ríkisstjórn, sveitastjórnir og bæjarstjórnir þar sem að nóga bitlinga verður að fá. En að beita raunhæfum aðgerðum gegn auðvaldinu er fjarri þeim enda er engin furða að atvinnurekendur kalli þá gjarnan hina ábyrgu talsmenn verkalýðshreyfingarinnar þegar verkafólk er með uppsteit og rellu.

Það er kominn tími til að verkafólk fari að bera virðingu fyrir sér og verkalýðssamtökum sem beitt væri með hagsmuni stéttarinnar að leiðarljósi, þannig að við gætum staðið saman þegar stéttarbræður okkar verða fyrir barðinu á uppsögnum.

Verkalýðsforingjar Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins hafa ekki þá stefnu að sameina verkalýðsstéttina til baráttu gegn auðvaldinu. Það sem þessir flokkar vilja er aðeins friður og samvinna við eigendur atvinnutækjanna og þjóðskipulag þeirra. Þess vegna eru verkalýðsfélögin svona grátlega máttlaus eins og raun ber vitni.

Hinn ungi Kommúnistaflokkur Íslands hefur það að markmiði að sameina verkalýðsstéttina til baráttu gegn auðvaldinu sem er orsökin fyrir því að verkafólk verður stöðugt að eiga í kaupgjaldsbaráttu og við búum við óöryggi í atvinnumálum svo að eitthvað sé nefnt. Þess vegna verða stéttvísir verkamenn að koma til liðs við flokkinn til að okkur megi takast það ætlunarverk að endurvekja verkalýðsfélögin sem brjóstvörn og sóknarafl verkafólks gegn auðvaldinu. Þegar því marki verður náð verður ekki um að ræða orðin tóm heldur verða verkin látin tala.

## Verðhækkanirnar í þágu auðvaldsins

Þriðjudaginn 30. ágúst síðastliðinn var gengi íslensku krónunnar fellt um 2,7% og segja Seðlabankastjórnendur það gert vegna gengisfellingar sænsku, norsku og dönsku gjaldmiðlanna. Þetta mun hafa þær afleiðingar fyrir launafólk að vöruverð mun hækka innan fárra vikna. Bætur vegna þessarar kjaraskerðingar verða ekki greiddar fyrr en 1. desember, því við erum nýbúin að fá greiddar vísitölubætur fyrir það þriggja mánaða tímabil sem liðið er frá samningum. Það verða því þrír mánuðir þangað til þessi kjaraskerðing verður bætt okkur að einhverju leiti. Þennan sama ólánsdag, rétt fyrir útborgun vísitölubótanna 1. september kom á einu bretti 20% hækkun á landbúnaðarvörum. Aðeins lítill hluti þeirrar hækkunar verður bættur launafólki 1. desember næstkomandi. Ástæðan er sú að stærstur hluti hækkunarinnar er kallaður "aukinn kostnaður vegna vinnuliðar bóndans í verðlagsgrundvelli landbúnaðarafurða", eða hækkun á launum bænda. Þessi svokallaða hækkun á launum bænda dregst frá vísitölunni þannig að lítill hluti hinnar 20% hækkunar landbúnaðarafurða mun verða bættur félagsmönnum verkalýðsfélaganna og annari alþýðu. Vitanlega verða það ekki venjulegir bændur sem fleyta rjómann af hækkun landbúnaðarvörunnar eins og endranær. Þeir sem það gera eru stórbændurnir sem stjórna einokunarsamsteypunni SÍS sem hefur öll ráð hins sístritandi bónda í hendi sér. SÍS ákveður verðið á þeim afurðum sem bændur verða að selja þeim, þeir vinna úr afurðum þeirra og selja þeim allt sem þeir þarfnast til búsins með hæfilegum gróða. Þorri bænda er því lítið betur settur en daglaunafólk verkalýðsfélaganna, og er því algjör óþarfi að bölva "sveitavarginum" fyrir þær kjaraskerðingar sem dynja á okkur vegna hækkunar landbúnaðarvöru. Það er einmitt það sem atvinnurekendur bæjanna og stallbræður þeirra í

frh. á síðu 3

# LEIÐARI:
# Svörum atvinnuleysiskuguninni

Í blaðaviðtölum síðastliðna viku hvetur Björn Jónsson forseti ASÍ verkafólk til að grípa til aðgerða vegna lokunnar frystihúsanna hér suðvestanlands. Hundruð verkafólks hafa misst atvinnuna og á sama tíma eru togarar látnir sigla með aflann. Þau frystihús sem hér eiga hlut að máli eru ýmist í einkaeign eins og t.d. Haraldur Böðvarsson og co á Akranesi, á vegum Samvinnuhreyfingarinnar eins og Meitillinn í Þorlákshöfn eða þá bæjarfélaga eins og Bæjarútgerðar Hafnafjarðar. Einokunarhringarnir SH og SÍS kaupa allan fisk þessara frystihúsa og hafa því ráð þeirra í herdi sér. Þeir auðmenn sem stjórna SH og SÍS geta þannig knúið frystihúsin til lokunar og skiptir það ekki máli þó að í hlut eigi Samvinnufyrirtæki sem að nafninu til eiga að vera í höndum fólksins eða þá bæjarfyrirtækji undir forsjá kjörinna bæjarfulltrúa. Þannig er nú lýðræðinu farið, örfáir auðmenn geta svipt hundruð verkafólks lífsbjörg sinni. Þessir auðmenn bera það fyrir sig að kaup okkar hafi hækkað svo mikið að frystihúsin bera sig ekki. Samt sem áður er það sannað mál, sem ekki verður hrakið, að kaup verkafólks í færeyskum frystihúsum er 64% hærra en hér heima. SH hefur oftar en einu sinni keypt fisk í Færeyjum til að selja á sama verði og þann íslenska í Bandaríkjunum. Þetta gat SH þrátt fyrir að sá fiskur hafi verið á miklu hærra verði en sá sem þeir kaupa af íslenskum frystihúsum. Orsakirnar fyrir uppsögnum okkar eru því ekki þær að við fáum of mikið kaup heldur þær að þessir auðhringar vilja aðeins auka gróða sinn enn meira en nú er. Þeir vilja gengisfellingu eða aðrar ráðstafanir frá ríkisstjórninni til að ná aftur þeirri litlu kjarabót sem við fengum eftir síðustu samninga.

Verkafólk má ekki sitja þegjandi og aðgerðarlaust þegar auðmenniruir beita okkur atvinnuleysiskúguninni. Eins og Björn Jónsson forseti ASÍ hefur látið hafa eftir sér verðum við að grípa til aðgerða Við verðum að beita verkalýðshreyfingunni til að kúga atvinnurekendur til að opna öll frystihús og skerða í engu þann litla kaupmáttarauka sem við fengum í síðustu samningum. Atvinnurekendur beita okkur ólögum þegar þeir svipta okkur atvinnunni. Þess vegna getum við með fullum rétti gripið til þeirra aðferða sem duga til þess að knésetja atvinnuleysiskúgun þeirra. Þeir hafa að engu friðsöm mótmæli verkalýðsfélaga okkar og reynslan kennir okkur að það gætir enginn hagsmuna okkar nema við sjálf. Þess vegna skulum við sýna samstöðu og styrk okkar með því að beita miskunnarlausum skæruverkföllum, alls staðar í atvinnulífinu þar sem að gagni má koma.

Forystumenn ASÍ munu gefa þegjandi samþykki sitt eins og í vetur þegar hafnarverkamenn fóru í skæruverkföll. Við höfum reynslu fyrir því að það er áhrifaríkasta vopn okkar, annað skilja atvinnurekendur ekki. Krafa okkar verður að vera: Tafarlausa opnun frystihúsanna, engar kjaraskerðingar.





# Pólskur efnahagur rambar á barmi gjaldþrots

Þýtt og endursagt úr Klassekampen

Fjallabóndi frá Lesja eða smábóndi sem vanur er hokrinu í fjallshlíðum fjarðanna á vesturlandinu yrði yfir sig hrifinn þegar hann liti augum slétturnar í Póllandi. - Drauma land fyrir landbúnað myndu þeir hugsa. Hér gætum við fengið blómstrandi matjurtagarð allt frá Eystrasaltsströndinni til Tatrafjallanna.

En samt sem áður:
Í ár eins og í fyrra mun Pólland ekki vera fært um að framleiða nóg korn til að fullnægja þörfum landsmanna. Pólverjar verða að flytja inn korn frá Bandaríkjunum og borga það í beinhörðum gjaldeyri.

Ávextir sjást svo að segja ekki í verslunum. Í verslun á götuhorni einu í Gdansk fengu þeir inn eina sendingu af banönum og samstundis myndaðist 20-30 metra löng biðröð fyrir utan. Fyrir framan kjötverslanirnar eru biðraðir - oft frá kl. 4-5 á morgnana.

Skýringar á þessu öllu koma fljótlega. Í ljós kemur að akurskikarnir eru pínulitlir og aðskildir Á jörðunum og meðfram vegunum eru fleiri hestar en dráttarvélar.

Raðir af kornskurðar- og bindingarvélum, sem er algeng sjón í A-Þýskalandi og Tékkóslóvakíu, sjást hvergi Það sem fyrir hendi var af ríkis- og samyrkjubúskap eftir frelsunina og stofnun pólska alþýðulýðveldisins er nær algjörlega úr sögunni. Akurlendi í einkaeign er algengara en verslanir í einkaeign.

Einnig er einkaeign í iðnaðarframleiðslunni greinileg. Einn stærsti atvinnurekandi Póllands er kaþólsku samtökin Pax. Auk dagblaða og prentsmiðja eiga þeir meðal annars einu verksmiðjuna í Póllandi sem framleiðir kúlupenna. Hvað verslun varðar hefur lögunum verið breytt einkaaðiljum til góða.

## Allt á "svörtum"

Það er full ástæða til að efast þegar ferðamenn frá vesturlöndum segja frá austur-evrópskum unglingum sem koma allt að því hlaupandi er þeir sjá nælonsokka eða gallabuxur.

En í Póllandi er í raun og veru hreinasta paradís fyrir svartamarkaðsbrask. Það fyrsta sem sést á hafnarbakkanum í Swinoujscie eru peningabraskararnir.
- 200 zloty fyrir 100 norskar. Það er venjulegt tilboð. Í zloty samsvarar það hálfum mánaðarlaunum meðaltekjuhás iðnverkamanns. Eðlilegt ferðamannagengi er um 700 zloty fyrir 100 norskar.
- Við reynum að útvega okkur dálítið af vestrænum gjaldeyti til að kaupa föt og leikföng fyrir barnið, útskýrðu ung hjón í Gdansk. Hann vinnur á daginn og lærir tæknifræði í kvöldskóla. Í desember 1970 var hann með þegar lögregla og hermenn börðu niður mótmælaaðgerðir þúsunda verkamanna í Eystrasaltsbæjunum. Konan er heima. - Við höfum ekki um neitt að velja, segja þau. Það er lítið um vinnu fyrir konur. Dagheimilispláss er ennþá erfiðara að fá. Eini möguleikinn er að fá foreldra eða aðra ættingja til að líta eftir börnunum.

## Að komast hjá biðröðum

Þessi hjón eru ólík velklæddu unglingunum sem laumast yfir girðinguna kringum tjaldstæðið og hverfa sömu leið tilbaka eftir skiptihringferð , til að lenda ekki í útistöðum við vaktmennina.

Þau segja frá því hvernig svartamarkaðsbraskið og spillingin gegnsýrir allt þjóðfélagið. Það eru topparnir, iðnaðarleiðtogarnir og flokksaðallinn sem standa á bak við allt svínaríið og kaupa vestræna gjaldeyrinn sem götubraskararnir útvega.

Sjálf dreymir þau um að eignast Pólskan Fiat. Hann kostar 90.000 zloty, þ.e. tvö árslaun. Fyrst verða þau að spara og staðgreiða svo bílinn. Síðan líða 2 ár þar til hann verður afhentur.
- Ef við ættum tvöfalt hærri upphæð gætum við farið beint á bílauppboð í Varsjá og fengið bílinn með heim sama dag.

Með erlendum gjaldeyri er hægt að losna við allar biðraðir, ekki hvað síst til að fá íbúð. Venjulega tekur það 8-10 ár að fá hana. Með nóg af gjaldeyri er hægt að stytta biðtíman.

## Nýjar verðhækkanir

25. júní í fyrra hóf pólskur verkalýður uppreisnarfánann á loft. Það var svar við yfirlýsingu um 60% meðaltalshækkun matvara, sem ríkisstjórn Edward Gierek hafði birt daginn áður. Og hún neyddist til að draga þær til baka. Skipt var um forsætisráðherra og Pjotr Jarosewicz tók við.

Hann hefur gert verkafólki ljóst að það vann aðeins stundarsigur. Sérstök nefnd sem sett var á stofn til að rannsaka ástandið í launa- og verðlagsmálum mun birta niðurstöður sínar fljótlega. Í byrjun næsta árs ætlar flokksforystan og þingið (Sejmen) að taka afstöðu til nýrra verðhækkanna. Nú þegar í haust má einnig eiga von á sérstökum verðhækkunum.




Pólverjar læra fljótt þolinmæði enda vanir biðröðum. Hér sést ein slík fyrir framan kjötvöruverslun í Varsjá. Innandyra er þröngin álika mikil.

Í ræðu nýlega varaði Jarosewicz greinilega við launaárásum og verðhækkunum.- Það á að skera niður vöruinnflutning og kjötneyslu.

Jarosewicz segir laun verkafólksins vera orsök erfiðleikanna. En þegar Jarosewicz talar um að halda launum niðri, meinar hann ekki laun forstjóra stáliðjuvers sem fær 120.000 zloty á mánuði (við fréttum um eitt slíkt dæmi í Nova Hluta í S-Póllandi.). Hann meinar laun ófaglærða verkamannsins sem fær 2000 á mánuði, nýútskrifaða kennaran sem fær það sama, meðalverkamanninn með 4000-5000 og tæknimaðurinn sem fær um það bil 7000 zloty.

Það er verkafólk sem á að borga brúsann vegna þess að Gomulka og nú Gierek hafa stýrt efnahagslífinu út á barm samkeppni og gjaldþrots. Útflutningurinn hefur staðnað. Gæði pólskrar framleiðslu eru sögð æ lélegri. Erlendar skuldir nema nú minnst 12 milljörðum dollara. Hin árlega kreppa í landbúnaðinum gerir ástandið bara enn verra.

Á sama tíma opnar Pólland dyrnar fyrir auknum fjármagnsinnflutningi frá vesturlöndum. Ódýrt vinnuafl freistar vestur-þýskra og ítalskra auðhringja eins og t.d. Fiat. Eins og áður sjá Sovétríkin fyrir því að selja dýrt og kaupa ódýrt.

Framhald á bls 3.

# Eyða lífi bjarga verðmætum

**Dufþakur**

Voldug ríki sem reynt hafa að hrifsa til sín nýlendur og mikilvæga markaði, hafa að jafnaði lagt ofurkapp á að þróa vopnaframleiðslu sína og gera hana sem fullkomnasta. Þróun í framleiðslu drápstækja hefur gjarnan verið í öfugu hlutfalli við t.a.m. þróun félagslegra málefna, í menntunarkerfinu, heilbrigðismálum o.þ.h. Jafnvel hlutir eins og þeir, að allir hafi nóg að bíta og brenna og atvinna sé tryggð hafa orðið að víkja fyrir fullkomnun morðvopnanna.

Í dag er svo málum háttað að tvö voldug ríki, Bandaríkin annars vegar og Sovétríkin hins vegar, berjast um heimsyfirráð. Það sem öðru fremur setur mark sitt á heimsvaldastefnu þessara ríkja er vígbúnaðarkapphlaupið. Bæði hafa þau lagt gífurlega áherslu á að framleiða æ fullkomnari drápstæki til þess að vera betur búin undir stórátök. Á sama tíma er matvælaskortur í Sovétríkjunum og atvinnuleysingjar í Bandaríkjum N-Ameríku hafa undanfarin ár skipt milljónum.

Á síðustu árum hafa Sovétríkin æ betur treyst stöðu sína sem heimsvaldasinnað ríki og hafa jafnvel orðið keppinautum sínum í vestri fyrri til að hrifsa til sín þýðingarmikla markaði. Samtímis hefur vopnabúnaður þeirra eflst hraðar en hjá vesturheimsku stríðshöldunum. Þeir hjá NATO hafa haft þungar áhyggjur af þessari þróun.

Nú hafa þeir atburðir hins vegar gerst - sem vafalítið mun létta mjög farginu af stríðsþyrstum auðkýfingum vestan hafs og öllum einlægum stuðningsmönnum hernaðarbandalagsins NATO: Bandaríkjamenn hafa gert áætlun um smíði hins fullkomnasta drápstækis, sem þekkst hefur, svo jafnvel ógnarvopn eins og kjarnorkusprengjan fellur í skuggann. Þetta nýja vopn nefnist nevtrónusprengja. Hún hefur þann stóra "kost" umfram kjarnorkuvopnið, að hún eyðir aðeins lífi, en lætur mannvirki óáreitt. Fullkomnara vopn geta heimsvaldasinnar vart hugsað sér. Nú geta þeir drepið alla þá hættulegu og óþjóðhollu menn, sem sífellt eru að angra þá, í einu vetfangi, samtímis sem verðmætum þessara auðmanna er borgið og þar með gróða þeirra. Með sigurbros á vör geta Rockefeller og hans líkar sagt: nú getum við gert út af við alla þessa helvítis skæruliða, kommúnista og hermdarverkamenn á augabragði án þess að hrófla við eignum okkar. Er ekki tilgangurinn með smíði nevtrónusprengjunnar augljós öllum?

Nýlokið er fundi ATA, samtaka til eflingar NATO (eða samtaka um vestræna samvinnu eins og þeir sjálfir orða það), hér í Reykjavík. Það sem einna helst þótti frásagnarvert af fundi þessum var yfirlýsingar aðalframkvæmdastjóra Atlantshafsbandalagsins, Jóseps Lúnds, til stuðnings smíði nevtrónusprengjunnar. En samkvæmt orðum Jóseps er ekki meiningin að nota slíkt vopn í stríði, heldur til þess að efla friðinn. Þetta eru einfeldnisleg rök þeirra manna sem ógna tilveru mannkynsins, með enn einni heimsstyrjöldinni.

Dufþakur.

frh. af forsíðu

# Ræða Hua Kuo Feng

áleit Hua formaður að kínverjar ættu að auka samband við marx-lenínísk flokka og samtök víðs vegar um heiminn og styrkja baráttuna gegn nútíma endurskoðunarstefnunni.

Hua formaður gerði kenningu Maós um þrjá heima sérstök skil í ræðu sinni. Hann sagði að þessi kenning væri hárrétt leiðbeining fyrir baráttuna núna á alþjóðamælikvarða, skilgreindi nákvæmlega aðalbyltingaröflin, höfuðóvinina og millihópana sem hægt er að vinna yfir og sameina og auðveldaði þannig alþjóðlegri hreyfingu öreiganna að sameina öll öfl sem hægt er að sameina í sem stærsta samfylkingu gegn höfuðandstæðingnum í heiminum.

Hua formaður sagði að lok fyrstu menningarbyltingarinnar markí nýtt tímabil í þróun byltingarinnar og sósíalísku uppbyggingarinnar. Ástandið í landinu er gott og almennur vilji er fyrir einingu og reglu. Stórt framfaraspor er í undirbúningi á efnahag landsins, örvað af baráttunni gegn klíku "fjórmenninganna". Byltingunni á vísinda- og tæknisviði og í menntun, listum og heilsugæslu fleygir fram.

Hua benti á að aðalatriðið í ákvörðun miðstjórnar að koma á röð og reglu í landinu væri að ljúka endanlega baráttunni og uppgjörinu við klíku "fjórmenninganna" með því að virkja fjöldann og sameina alla sem hægt er að sameina, þurrka út áhrif gagnbyltingarsinnaðrar línu "fjórmenninganna", tryggja og þróa áfram sigrana í baráttu hinna tveggja lína og halda áfram að fylgja kenningum Maós.

Í skýrslu sinni útskýrði Hua formaður nánar átta aðalmarkmið flokksins nú og í náinni framtíð eins og þau eru sett fram í ákvörðuninni um að grípa í lykilhlekki stéttabaráttunnar og koma á röð og reglu í landinu. Þessir átta punktar eru: Við verðum að ljúka endanlega baráttunni og uppgjöri við klíku "fjórmenninganna", við verðum að sameina flokkinn og leiðrétta og styrkja skipulag hans, við verðum að vinna vel að því að byggja upp leiðandi einingar í öllum einingum flokksins, við verðum að dýpka byltinguna auka framleiðsluna og efla hag þjóðarinnar, við verðum að ná árangri byltingar í menningar- og menntamalum og þróa sósíalíska menningu og menntun, við verðum að styrkja ríkisvald alþýðulýðveldisins, við verðum að auka lýðræðið og styrkja lýðræðislega miðstjórnaraflið og við verðum að leggja áherslu á að líta á heildarmyndina og grundvallarskipulag til að virkja öll jákvæð öfl til byggingar sósíalisma. Hua formaður sagði að það þyrfti ennfremur að vekja fjöldann og heyja hart stríð gegn og endanlega að útrýma og gagnrýna últra-hægrisinnuð áhrifum gagnbyltingar- og endurskoðunarstefnu klíku "fjórmenninganna". Rannsóknir á einstaklingum sem blönduðust inn í málin og voru tengdir glæpsamlegum tilraunum "fjórmenninganna" til að ræna völdum í flokknum og ríkinu eru mikilvægur þáttur baráttunnar, þáttur sem verður að framkvæma með því að virkja fjöldann. Samtímis, eftir því sem hreyfingin dýpkar, verðum við að veita athygli pólitík flokksins, sameina meira en 95% félaga og fjöldans, einangra eins og mögulegt klíku "fjórmenninganna" og hina fáu fylgismenn þeirra sem eru sekir um alvarlega glæpi og hafa ekki viljað bæta ráð sitt. Þannig verður að einbeita baráttunni gegn þeim.

Hua formaður tilkynnti að miðstjórnin hefði ákveðið að fimmta þjóðþingið yrði kvatt saman sem fyrst og undirbúningur hafinn nú þegar. Hann lauk skýrslu sinni á því að leggja áherslu á að örva þyrfti til dáða öll jákvæð öfl innan flokksins og utan, treysta einingu flokksins, hersins og þjóðabrotanna til að treysta alræði öreiganna og byggja upp sósíalískt ríki.

Framhald af bls. 2.

### PÓLSKUR EFNAHAGUR RAMBAR Á BARMI GJALDÞROTS

Meðan fámenn borgarastétt og útlendingar með úttroðna vasa af erlendum gjaldeyri geta lifað áhyggjulaust í Póllandi líður fólk skort, sérstaklega út til sveita. Mikil drykkja er algeng sjón þegar farið er um göturnar. Og hvers konar "sósíalískt" land er það sem lætur gömlum konum það eftir að draga fram lífið með því að selja plastpoka með Malboro-auglýsingum á úti á götu?

Pólland er ef til vill það land í A-Evrópu sem greinilegast sýnir hnignunina og afturförina bæði efnahagslega og pólitískt, frá gagnbyltingunni 1956.

Á sama tíma er Pólland landið þar sem barátta verkalýðsins er hörðust. Jarosewicz veit allt of vel að nýjar verðhækkanir geta orsakað nýjar sprengingar. Og það er þessvegna sem hann reynir að slá ryki í augu fólks með því að tala "hreint út" um vandamálin í þeirri von að fá verkalýðinn til að samþykkja að það sé hann sem eigi að borga brúsann vegna gjaldþrots Bresnev-leppanna.

frh. af forsíðu

### VERÐHÆKKANIR.....

Vinnuveitendasambandinu, stórbændurnir sem ráða stéttarsamtökum bænda, vilja. Þannig sá þessir aðiljar ósætti og sundrungu meðal verkafólksins og alþýðu sveitanna. Og að sjálfsögðu tekur hin uppkeypta forysta verkalýðshreyfingarinnar þátt í sundrungarstarfsemi meðal alþýðunnar með því að gera samninga þar sem hækkanir á svokölluðum launum bænda bitna sem kaupmáttarrýrnun á launum verkafólksins þegar landbúnaðarvörurnar hækka í verði. Vissulega geta forystumenn ASÍ samið um vísitölu þar sem allar hækkanir á neysluvörum fólks án tillits til þess hvernig þær eru til orðnar eru bættar að fullu.

Af þessu er ljóst að miklar kjaraskerðingar sem bitna á okkur þessar vikurnar, verða ekki bættar nema að litlu leyti vegna þess hvernig þeir samningar eru sem við búum við. Hinn vafasami heiður er ASÍ forystunnar, þeir standa sig vel í undanlátssemi sinni við Vinnuveitendasambandið eins og dæmið um landbúnaðarvörurnar sýnir okkur framá. Það þykir kannski einhverjum að forystumenn verkalýðshreyfingarinnar fái hér harðan dóm. En ef hann er harður þá hafa þeir unnið til hans, ekki bara með þeim dæmum sem tilfærð eru hér, heldur svo fjölmörgum öðrum sem þorri vinnandi fólks þekkir; þegar það hefur verið beitt órétti af vinnuveitendum með þegjandi samþykki uppkeyptra verkalýðsforingja.

Verkafólk! Við verðum að taka upp baráttu gegn þeim mönnum sem ráða verkalýðshreyfingunni og bera ábyrgð á því hve illa hún er sett þegar ráðist er á kjör okkar og réttindi. Það er frumskilyrði fyrir því að verkalýðsfélögin verði að baráttutækjum í okkar þágu.

# ÚTIHÁTÍÐ herstöðvaandstæðinga 77

Útihátíð Samtaka herstöðvaandstæðinga var haldin innanhúss í Félagstofnun Stútenta, um síðustu helgi. Vegna veðurs í höfuðstaðnum var ekki hægt að halda hátíðina í hvilftinni fyrir framan háskólann eins og ráðgert var. Mikið fjölmenni var svo að margir fóru á mis við skemmtuninna. Hún stóð frá 2 e.h. og komu fjölmargir róttækir listamenn fram. Í barnagæslunni léku börnin sér að því að búa til báta og margt fleira úr gömlum Moggum. Félagi í Miðnefnd Samtaka Herstöðvaandstæðinga Gunnar Andrésson flutti ræðu auk Guðrúnar Ögmundsdóttur, Vilborgar Harðardóttur, og Ingibjargar Haraldsdóttur

Um klukkan 5 lauk svo þessum þætti hátíðarinnar.

Seinna um kvöldið var skrall sem fór vel fram til klukkan 2 um nóttina.

Þessi hátíð hefur tvímælalaust orðið til þess að efla baráttuþrek herstöðvaandstæðinga.

Kaupið og berið merki Samtaka Herstöðvaandstæðinga.

Það færst á skrifstofunni Tryggvagötu 10. Opin á virkum dögum kl. 4-6.

Einnig í Rauðu Stjörnunni Lindagötu 15. Opin á virkaum dögum kl. 3-6.1/2.




**Rauður vettvangur** FRÁ LESENDUM.

# Harðir kostir sovézkra sjómanna

Ég rakst á þessa fyrirsögn í Morgunblaðinu um daginn og vakti hún athygli mína. Svo virðist að blaðið málgagn Matthísasar Bjarnasonar bráðabirgðalagaráðherra, hafi loksins snúist í afstöðu sinni og sé nú farið að taka málstað sjómanna. Ég bíð nú aðeins eftir því að blaðið, sem hingað til hefur eingöngu barist gegn hagsmunum íslenskra sjómanna, fari nú að taka upp hanskan fyrir okkur. Væru það vissulega gleðileg tíðindi nú á eins árs afmæli 6. sept. laganna illræmdu.

Sjómaður.

Framhald af baksíðu

### Í MINNINGU MAÓ TSE-TUNG

einingu en ekki sundrungu, verið opinská og heiðarleg og takið ekki þátt í samsæri eða pukri", eins mikilvæg og endurheimt sjónarinnar er fyrir blindingjann. Þannig er það ávallt afar mikilvægt fyrir framþróun heimsbyltingarinnar að mikil áhersla sé lögð á að tileinka sér kenningar Maó Tse-tungs og að skapa það andrúmsloft sem starfshættir hans bera með sér. Með slíku starfi heiðrum við minningu hans best.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
30.tbl. 6.árg. 6/9. 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# BSRB: Samstaða færir sigur

Viðræður samninganefndar BSRB og ríkisins eru nú hafnar fyrir nokkru. Lítið miðar þó í samkomulagsátt og virðist sýnt að ríkisvaldið ætli sér í engu að ganga að kröfum BSRB. Samningar opinberra starfsmanna voru lausir 1.júlí s.l. en ekki var gripið til neinna aðgerða þá m.a. vegna hins skerta verkfallsréttar sem krefst 50% þátttöku í atkvæðagreiðslu um sáttatillögu. Verfallsboðun samkvæmt nýju reglugerðinni fer þannig fram að boða verður til verkfalls með 15 daga fyrirvara. Innan 10 daga frá boðun verður sáttanefnd að leggja fram sáttatillögu og getur frestað vinnustöðvun um aðra 15 daga. Á þeim tíma eiga félagsmenn BSRB að greiða atkvæði um sáttatillöguna. Til að fella hana þarf meira en 50% kjörsókn og meirihluta gegn henni, annars verður hún sjálfkrafa að kjarasamningi. Ef hún er felld er verkfall hafið. Þannig tekur það mánuð frá verkfallsboðun og þar til verfall skellur á. Enn hefur samninganefnd BSRB ekki boðað til verkfalls en forystumenn samtakanna hafa látið í ljós að þess muni skammt að bíða.

## Aðalkröfurnar

Þar sem verkfallsréttarlögin krefjast svo mikillar þátttöku í atkvæðagreiðslu um sáttatillögu er brýn nauðsyn að allir opinberir starfsmenn séu meðvitaðir og sammála í höfuðatriðum um þær aðalkröfur sem lagðar eru fram. Annars er hætta á að ómöguleg sáttatillaga ríkisvaldsins teljist samþykkt.

Aðalkröfurnar í þeirri kröfugerð sem BSRB hefur lagt fram eru: Fyrst og fremst beinar launahækkanir og leiðrétting launstigans. Aðrar mikilvægar kröfur sem ekki má hvika frá er krafan um fullar vísitölubætur sem reiknast mánaðarlega, auk kröfu um endurskoðunar- og verkfallsheimildar á samningstímabilinu ( sem er 2 ár lögum samkvæmt.) ef verulegar breytingar verða (s.s. gengisfelling, afnám vísitölu o.fl.). Slík ákvæði til tryggingar því að ríkisvaldið standi við samningana eru gífurlega mikil væg og þau má því alls ekki vanta í þá sáttatillögu sem opinberir starfsmenn samþykkja.

## Ef til verkfalls kemur

Allsherjarverfall opinberra starfsmanna sem munu vera um 12-13 þús. getur, ef rétt er að staðið, verið gífurlega beitt vopn gegn ríkisvaldinu. Það er mjög nauðsynlegt að gera sér grein fyrir því þegar ákvörðun er tekin í atkvæðagreiðslunni. Slíkt verfall myndi m.a. stöðva eða lama algerlega margar greinar þjónustu og samgangna. Því yrði slíkt verkfall aldrei langvinnt, ríkisvaldið yrði neytt til að ganga til samninga.

Hitt er augljóst að ríkisvaldið mun örugglega reyna að hindra að samstaða verði um verkfallið og þannig reyna að veikja það. Aðferðir ríkisvaldsins, auk hinna venjulegu sem beinast að því að fá almennings. álitið upp á móti verkfallinu, með lygum og falsi gætu m.a. verið þær að fá einstaka hópa (t.d. bæjarstarfsmenn) til að kljúfa sig út og "bíða" með að fara í verkfall. Auk þess munu fulltrúar ríkisvaldsins örugglega leita stíft á um undanþágur og gætu undanþáguveitingar vissulega veikt verkfallið verulega og dregið úr áhrifamætti þess.

Meginþorri opinberra starfsmanna, sem hefur á engan hátt sameiginlega hagsmuni með borgurunum og ríkisvaldi þeirra verður að vera vel á verði gegn öllum slíkum tilraunum. Í þeirri baráttu sem nú fer í hönd er samstaðan mjög mikilvæg, því verkfall, ef af verður nú, mun verða prófsteinn á styrk okkar.

Þau laun sem fjölmennir hópar opinberra starfsmanna hafa nú eru á engan hátt nægileg til að framfleyta fjölskyldu. Því verður að breyta og verður nú þegar að hefja þá sókn.

Rvk.1.9.'77.

# Ævarandi hlutleysi Íslands

Það er ljóst ef litið er á útþenslustefnu Sovétríkjanna um allan heim að hættan á styrjöld fer vaxandi. ATA þingið þar sem sátu stuðningsmenn NATO var haldið nú fyrir skömmu. Boðskapur þess þings var áköllun á styrkara NATO til undirbúnings heimstyrjaldar. NATO vinir hér á Íslandi vilja draga okkur inn í stórveldaátökin og nota þeir fjölmiðla eins og sjónvarpið óspart áróðri sínum til framdráttar. Síðastliðið þriðjudagskvöld var t.d. endursýnd áróðursmynd í sjónvarpinu, þar sem NATO hershöfðingjar voru að hvetja til aukins vígbúnaðar, sem alþýða viðkomandi landa ber að sjálfsögðu uppi með striti sínu.

Það er engin vörn eða trygging fyrir sjálfstæði Íslands með aðild að Hernaðarbandalagi. Það að Amerískur her er hér og við erum aðilar að NATO gerir það að verkum að við munum óhjákvæmilega dragast inn í næstu heimsstyrjöld. Stefna okkar herstöðvaandstæðinga verður þar af leiðandi að vera sú að upplýsa fólk um stríðshættuna og þá hættu sem það hefur í för með sér fyrir okkur að vera aðilar að NATO.

Við verðum að stefna að ævarandi hlutleysi Íslands, þannig að hernaðarbandalög heimsvaldasinna haldi sig utan landhelginnar með vígatól sín.

Nokkur smáríki eins og t.d. Írland og Ísland tóku ekki þá í síðasta heimsófriði og varðveittu þannig hlutleysi sitt. Að vísu voru þau hernumin af bandamönnum. Hér heima var það í óþökk þeirra manna sem réðu þjóðinni því að þeir vildu að ísland stæði fyrir utan átökin, a.m.k. til að byrja með. Við íslendingar höfum þá sérstöðu að við höfum ekki barist í margar aldir og höfum þess vegna týnt niður kunnáttunni í því að drepa menn. Kröfur okkar herstöðvaandstæðinga eiga því að vera:

Niður með glæpsamlegar stríðsfyrirætlanir USA og USSR.

Ísland úr NATO-herinn burt
Ævarandi hlutleysi Íslands

# Stéttabaráttan 30. tölublað herðum róðurinn

Það er óþarfi að hvetja menn til að láta ekki sitt eftir liggja, allir hljóta að sjá hve mikilvægt það er íslenskri verkalýðsstétt og kommúnismanum að eiga góðan málsvara.

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.




Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18 .



# Lögreglustörf

Góðviðrismorgun, á miðvikudag í síðustu viku, óku 3 ungir og fílefldir lögregluþjónar á Svörtu-Maríu R-20001 á milli strætisvagnabiðskýla í vesturbænum í Reykjavík. Voru þeir við þá iðju, sem flestir hafa sjálfsagt álitið að aðrir iðkuðu ekki en pólitískir óvitar af yngra taginu,- trylltir af áróðri borgarablaðanna, nefnilega þá að rífa niður auglýsingaspjöld herstöðvaandstæðinga, um útihátíð þeirra. Þessa iðju hafa verðir laganna væntanlega stundað eftir fyrirmælum yfirmanna sinna. Allavega báru þeir nokkurn kinnroða fyrir verkinu og var spaugilegt að sjá þá skima í allar áttir áður en ráðist var til atlögu. - En getum við ekki einmitt af þessu dregið nokkurn lærdóm af árangri starfs Samtaka Herstöðvaandstæðinga uppá síðkastið?

# Í minningu Maó Tse-tung



Þann 9. september er liðið eitt ár frá andáti mikilhæfs marxista-lenínista, leiðtoga kínversku byltingarinnar og uppbyggingar sósíalismans í Kína, Maó Tse-tungs. Stórfenglegt dagsverk hans í þágu verkalýðs og vinnandi alþýðu Kína og alls heimsins verður ekki um alla framtíð máð út af spjöldum sögunnar né heldur ónýtt af heimsvaldasinnum, því slíkt er umfang þess og ómetanlegt mikilvægi. Óumdeilanlega hefur marxisminn-lenínisminn unnið sína stærstu sigra undir handleiðslu hans og kenningar hans eru eitt af dýrustu fjöreggjum hinna kúguðu og undirokuðu öreiga heimsins í baráttu sinni fyrir frelsi, friði og sósíalisma. Hann er sá maður á okkar öld sem án efa hefur haft hvað mest áhrif á rás söguþróunarinnar að svo miklu leyti sem einn einstaklingur er þess megnugur. Maó Tse-tung var hinn fórnfúsi, trausti og sjálfsgagnrýni leiðtogi fólksins í Kína, starfandi meðal þess og í þágu þess og hann var sá sem ritaði á gunnfána sinn "þjónið fólkinu". Liðsveitir heimsbyltingarinnar drjúpa höfði í sárum söknuði og mikilli virðingu vegna þín Maó Tse-tung. Þín sem varst mótaður og hertur í eldlínu stéttabaráttunnar. Þín sem blést nýju lífi í byltingarhreyfingu nútímans, þín sem með kenningum þínum lýsir veg okkar enn. Það væri að bera í bakkafullan lækinn að ætla sér í stuttri grein sem þessari að tíunda öll afrek Maó Tse-tungs. Þess í stað viljum við bera fram okkar einlægasta þakklæti til kínverskrar alþýðu að hafa alið slíkan son. Því fyrir marxíska-leníníska hreyfingu sem meira og minna þjáist af barnasjúkdómum einangrunarstefnu, sundrungar og kreddufestu eru orð Maó Tse-tungs:,"ástundið marxisma og ekki endurskoðunarstefnu, vinnið samkvæmt

frh. á bls. 3